Æ f i - M i n n í n g

Prestsekkju

# Sigrídar Magnúsdóttur

flutt vid hennar Jardarför

þann 17da Sept. 1830,

af

**Arna Helgasyni,**
Danoebrogs Riddara, Stiftsprófasti, Prófasti í Kjalarness þíngi
og Sóknarpresti til Garda og Bessastada safnada.

---

Kaupmannahöfn, 1831.
Prentud á kostnad Lect. Theol. *Jóns Jónssonar*,
hjá P. N. Jörgensen.

---

Þad eru hartnær 90 ár sídan, þessi *Framlidna*, sem hèr liggur í líkkistu, lagdist fyrst í vöggu. Foreldrar hennar stódu þá líklega med fögnudi kríngum hennar legurúm, en med þeim fögnudi, sem einsog allur jardarinnar fögnudur, hefir verid blandinn áhyggju. Nú standa afkvæmi vid legurúm þeirrar *Framlidnu*, med þeim tilfinníngum og hugsunum sem hvörs eins hjarta minnir á vid útför módur, og þeirrar, sem þau maklega elskudu og heidrudu alla hennar æfi.

Millibilid frá þeirri einu vöggu til annarar, var lángt. Vèr skulum renna auga yfir þad, í því vèr veitum þeirri *Framlidnu* þá sídustu þènustu, og flitjum hennar jardnesku leifar í reit Guds barna til ad hvíla þar og bída upprisu alls holds, vid hlid síns elskada bródurs, ydar fyrrverandi heidursverda Kènnifödurs.

Sú *Framlidna* ólst upp hiá foreldrum sínum, þarsem hún fæddist, í *Vatnsfirdi* innan Isafjardar-Sýsslu; í þeirri sömu Sýsslu var Fadir hennar Prófastur, en Prestur til Vatnsfjardar. Nöfn Foreldranna vóru: *Magnús Teitsson* og *Ingibjörg Markúsdóttir*. Vor *Framlidna* fæddist á þeim tíma, þegar sidur var ad uppala börn til hardfeingis og alvörugèfni med hördum aga, og láta ei unglínginn eda jafnvel barnid verda hússbónda á heimilinu. Sú *Framlidna* vard fyrir sama hlutfalli, sem hennar systkyni og jafnaldrar, á því heimili, hvar stjórnsemi var eingu linari enn annarstadar um sama leiti. 21 árs gömul giftist hún *Illuga Jónssyni*, er fyrst var Kapellan hiá teingdafödur sínum Prófasti *Magnúsi Teitssyni*, og sídan Prestur til Kyrkjubóls í Lángadal, jafnt nafntogadur fyrir hugvit, sem rádvendni. Saman vid þennan sinn elskada mann bjó hún í rúm 20 ár og átti med honum 14 börn, hvaraf nú lifa 5. Madur hennar burtkalladist vofeiflega, drukknadi á heimferd úr kaupstad med þeirra elsta syni,

efnilegum manni, og fleirum vandalausum; var þá margt af börnum þeirra hjóna á lífi, því kornúng dóu ei nema 2, og önnur 2 á 7da og 9da aldursári, en heima vóru þá samt ekki nema 4, og þeirra hid elsta á 17da ári, því Fadirinn, var búinn ad koma hinum frá sèr, þar hann af einhvörri þeirri gáfu sálarinnar, sem ad hægra er ad segja med sanni hún sè gædd med, þó misjafnt beri á henni, heldurenn ad segja hvörnig á standi, bjóst vid ad lífsstundir sínar fækkudu ódum. Af sömu orsök hafdi hann flutt sig frá Kyrkjubóli því veniulega Prestssetri í sókninni, og á litla, hæga jörd, sem undir stadinn liggur, svo konan, ef sín misti vid, væri ei bundin, bædi vid erfida bújörd og þúngt útsvar eptir sinn dag. Þessi mótgangsskúr, missir manns síns og sonar í einu, lagdi vora *Framlidnu* í rúmid, svo hún sinnti eingu og gat eingu sinnt um lángan tíma eptir. Mèr er minnisstætt frá mínum ýngri árum, bædi hvad mannskadi þessi var hraparlegur álitinn í plátsinu, og undireins hvad sorglegt ástand þessa heim-

ilis var og einkum harmur mikill þeirra, sem næst var höggid, þegar hússfödurnum var burtsvipt. Vor *Framlidna* bjó ei leingur enn til vorsins vestur í Lángadal eptir fráfall manns síns, flutti þá fyrst i húsmennsku til *Olafs* Prests *Gíslasonar* í Saurbæ innan Dala-Sýsslu, eptir þessa tilbodi; vinskapur vid hinn *Framlidna* þrýsti honum til ad sýna Ekkjunni þessa velgjörd, hvörrar naudsyn honum var útlistud af Sýsslumanni í Isafjardar Sýsslu *Jóni Arnórssyni*, einsog hann, í öllum þessum hennar kríngumstædum og bágindum ekkjustandsins, fyrst eptir fráfall manussins var henni næsta lidsinnandi, og ödrum fremur, ef ekki sá einasti, sem lidsinnti. Hann var og sá seinasti sem Presturinn sálugi kvaddi, þad sama kvöld er hann drukknadi, af þeim er eptirlifdu, og fór frá hans gódfræga heimili til ad deya. Húsmennskan varadi 2 ár; eptir þad bjó þessi vor *Framlidna* med börnum sínum í Dala-Sýsslu og hafdi sem fyrivinnu son þess áminnsta Prests, *Jóhann* ad nafni, um nokkur ár, þaraf orsakadist henni sú

mæda, eda þó rèttara sagt, þau vandrædi, ad til hennar var fluttur, og jafnvel eptir yfirvalds úrskurdi, Presturinn fadir þessa *Jóhanns*, bandódur og hún látin annast. Undarleg lög, sem slíkur úrskurdur gètur ordid ábyggdur! Vid búskap var sú *Framlidna* vestra þángadtil **1799**, þá fluttist hún sudur ad Gördum til bródur síns Stiftsprófasts *Markúsar Magnússonar*, med dóttur sinni *Karitas*, er **1804** giftist Stjúpsyni hans Lector *Johnsen*, og eptir ad þetta hjónaband var inngeingid var hún í braudi þessarar dóttur sinnar og teingdasonar í Gördum, Bessastödum eda í Lambhúsum, hjá hvörjum hún nú þann 8da þessa mánadar um midjanmorgun sofnadi; svo hún skildi ekki, má segja, eina nótt vid þessa dóttur sína, frá því dóttirin fæddist og þángadtil módirin nú fæddist til eilífs lífs.

Þetta er hid helzta sem mèr er kunnugt um vegferd vorrar *Framlidnu*, frá því hún fyrst var lögd í barnsvöggu og þángadtil hún nú var lögd í þessa líkkistu.

Ad hún hafi reynt, einsog flestra hlutfall er í þessu lífi, bædi blítt og strítt, er audheyrt af þessu stutta ágripi hennar æfi. Medan hún bjó med manni sínum var fjárhagur hennar erfidur; þess var öll von þegar inntektir mannsins vóru litlar, en margir ómagar til ad njóta. Eptir ad hún var ordin ekkia, var eingin von til ad fjárhagurinn batnadi; þá var líka hallæri hèr í landi; eg veit ei heldur hvört hún hefir haft þad gáfnalag, sem leidir til audlegdar. Menn segja ad sá sem eignist mörg börn hann eignist marga sorg, þad er ad skilja: med margri gledi. Sum sín afkvæmi misti hún í því þau vóru ad verda fulltída, og nokkur þessara vóru efnileg; önnur rötudu, módur sinni til rauna, í ýmisleg mædu tilfelli. Þó önnur yrdu þá fyrir láni, er ekki ólíklegt ad módurina hafi meir hryggt óheppni þeirra sem midur lánadist lífid, heldurenn lán hinna er lífid lèt betur.

Þad mega heita hennar sæludagar, sem hún lifdi hèr sydra, eptir ad komst í hús bródur síns og þadan í hús dóttur og teingda-

sonar. En þad er nú ekki mikils vert hvört hlutfall lífsins hefur verid, þegar þetta stríd er á enda, hitt er meira vert, hvörnig hvörr í sínu rúmi hefir tekid því sem honum mætti, og borid sitt hlutfall. Med hvörju sinni sú *Framlidna* bar sinn mótgang, er mèr ekki eins kunnugt og þad, hvörnig hún tók því gledilegra hlutfalli æfinnar. Hún fann til mótlætisins þúnga, þad vottar sorg eptir manninn er þúngt lagdist á hana. En hafi hún verid þá búin ad læra þá gudrækni sem henni sýndist svo töm á hinum efri árum, veit eg hún hefir gèfid sig Gudi, og lagt sig med audmýkt undir hans hirtandi hönd. En eptir ad hagur hennar snèrist til láns henni og hennar, heyrdi eg hana opt med heitri andakt lofa Drottinn fyrir alla medferd á sèr, svo innilega, ad einginn gat efast um ad munnurinn taladi af nægd hjartans. Þá fer nú vel þegar madurinn í mótgángi vonar til Drottins, og í velgeingni man til þess ad vera þakklátur.

Um gáfur vorrar *Framlidnu* má þad med sanni segja, ad þær vóru afbragds góð-

ar, allt var samfara: næmi, minni og skarpleiki; jafnvel í sinni háu elli mundi hún þad, sem nema vildi, eins fljótt og hvörr medal-gáfumadur á besta aldri. Minnid var í svo gódu lagi ad hún gat ekki gleymt því er hún úng hafdi numid; af svörum hennar, þá svo bar undir, mátti ráda, ad skarpleikann vantadi ekki, því þau vóru eptir efni og kríngumstædum vel valin. Handydnir og alla þaradlútandi kunnáttu skal hún hafa haft sèrdeilis gáfur til ad nema, svo ad fáar konur gjördu betur enn jafnast vid hana í þessari ment. Eptir eintómri sjón, án tilsagnar, numdi hún margt hvad hèradlútandi betur enn margur hvörr, sem fær góda tilsögn, hvad ed med ödru vottar, ad hún hafi haft gódar gáfur med handlægni.

A ýngri árum var hún tápmikil og gèdrík, stjórnsöm og straung í sínu húsi og sidavönd, bædi vid börn sín og únglínga, er hún átti yfir ad segja. Med árunum, máskè og af mótgánginum, snèrist allt lunderni hennar til blídu, gódsemi og gudrækni, svo ad á þessu bar mest í allri hennar

framgaungu, ordum og vidmóti; þeir sem hana umgeingust gátu því ei annad enn heidrad og elskad hana.

Þesshátttar var lífsskeid og lífskjör og líferni þeirrar *Framlidnu.* Hún dvaldi flestum leingur á þessari jördu, reyndi ýmislegt, og hagadi sèr gudrækilega í hvörju sem ad hendi kom; þad mátti heita, ad hún væri ordin framandi á þessari jördu, því sú kynslód sem med henni ólst upp, var flutt burt af lífsins skodunarplátsi. Hugur hennar var fyrir laungu kominn frá þessari jördu, vid hana mun hann aldrei hafa verid fast bundinn, þángad á undan hennar ódaudlegu sálu fluttur, hvört hún nú hèdan lagdi úr þeirri hartnær nidurhrundu líkams tjaldbúd, og vid þessum flutníngi bjóst sú *Framlidna* á hvörri stundu nú í fleiri ár, því árin töludu og sögdu henni vid hvörju væri ad búast fyrir alla af kvinnunni fædda, og hún tók eptir því sem árin töludu. Um vidskilnad hennar gètum vèr med mesta rètti brúkad Ritníngarinnar ordatiltæki: *hún sofnadi med sínum fedrum.* Þad andlega

og líkamlega hafdi svoleidis smámsaman greidt sig hvad frá ödru, ad þegar stundin kom, ad þad skyldi til fulls skilja, kostadi þad ekki nein meidandi átök. Þau elskubönd sem bundu hana vid þad elskuverda hús, sem hún naut seinast í allrar þeirrar lífsins sælu, er hún gat notid, vóru ei svo sterk, sem þau elskubönd er togudu hana til Guds, því hún var gudhrædd og trúdi honum fyrir þeim sem hún elskadi og bad hann iduglega fyrir ad vernda og blessa sinn ættlegg. Hvad skyldi þá halda henni vid þennan heim?

Þad eru ad sönnu nokkud ólíkar tilfinníngar og hugsanir, sem vakna hjá þeim lifandi, þegar madur fædist til þessa lífs, og þegar hann, ef eg mætti svo ad ordi komast fædist til eilífs lífs, eda deyr; en þær gèta ordid, fyrir ímyndunarinnar og trúarinnar adstod, nokkud svipadar; þegar madur er í heiminn borinn, svo er fædíngarinnar hætta afstadin; þegar madurinn deyr, þá eru lífsins hættur, sem eingu minni eru enn hinar, sem med fædíngunni fylgjast, á enda

kljádar. I voninni fagna foreldrar og foreldra vinir, þegar afkvæmid er fædt. I trúnni gèta náúngar hins framlidna, og þeirra vinir fagnad, og skyldi einhvörjum til hugar koma, ad trúin gæti ei verid nógu viss og sterk til ad gledja vid þetta atridi, þá gèt eg fullyrdt, og þad af reynslunni, ad bili trúin, þá bregdst líka vonin foreldrisins tídum. þennan samjöfnud mætti leingra leida, en eg vil ekki vidbæta ödru enn þessu, ad þó menn væru án trúar á ödru lífi, svo er þad vandasöm spurning úr ad leysa: hvört meira tilefni sè til ad gledjast, þegar madurinn fædist, heldurenn þegar hann deyr. Sá sem fædist, á í vændum bædi fögnud og sorg, og nóga armædu, hinn sem deyr, skyldi ei vera von á lífi eptir þetta, sem mínu viti gètur þó aldrei skilist, ad eg ekki tali um ástædur vorrar trúar fyrir von eilífs lífs, hann á hvorugs von, í þess stad hvíldar, og gæti völ haft stad, kèmur þad mest uppá hvörs eins lundarlag, hvad hann vildi heldur kjósa. En þad sjá allir ad fyrir hinn háaldrada, sem lífid er ordid ad byrdi, svo er

gott hèdan ad fara og fá hvíld. Hvad þá, þegar von er á sælufullu lífi, med uppýngdu fjöri, hvar hvörki er synd, sorg nè daudi, því svo kènnir trúin oss.

Eg hefi opt sèd glada menn og med þeim tekid hlutdeild í þeirra fögnudi og þó man eg ekki til, ad eg hafi sèd nokkurn gladari, eptir útliti andlitisins ad dæma, í hjarta sínu, heldurenn þessa *Framlidnu*, þegar minntist á Gud og Guds handleidslu á sèr og sínum. Eg ímyndadi mèr ad hún væri nú þegar flutt inní sælunnar heimkynni, og farin ad njóta þess fagnadar, sem á eilíflega ad verda hlutdeild hinna útvöldu, og hafi gledin gètad skinid svo gègnum þad hrörlega hús sem andi hennar bjó í, hvörr vill þá lýsa hennar fögnudi, þegar hún nú hèreptir endurfædd, fer huga yfir sína lífsleid og þekkir tilfulls tilgáng alls þess sem Gud lèt hana gègnumgánga? Vèr undirtökum med Postulanum: þad hefir ekki auga sèd, og ekki eyra heyrt, og eingum hefir til hugar komid þad sem Gud hefir ætlad þeim, er hann elska.

Vèr samfögnum henni sem leyst er úr lífsins mædu, södd lífdaga, med gudrækni sinni ordin hæfileg til ad njóta himinsins sælu og fögnum í þeirri trú ad fá ad inngánga, þegar lífsins útlegd er á enda, til þeirrar sömu Guds hvíldar sem þessarar vorrar *framlidnu Systur* hlutdeild er ordin, og bidjum þig Drottinn! ad tilreida oss betur og betur, og gjöra hæfilega fyrir himininn. Amen.



## Sigrídur Magnúsdóttir,

fædd 5ta Janúar 1741,
giftist 14da September 1760,
Illuga Presti Jónssyni.
Atti med honum 14 börn.
Vard ekkja 4da Febrúar 1782.
Andadist 8da Sept. 1830.

---

*Atgiörvi var ærid henni veitt:*
*Sálarblída sameinud röggsemi,*
*Sönn gudhrædsla, dæmafá gódsemi;*
*Vel sem prýdir vantadi ekki neitt.*

*Laung var æfi, lífid einatt sorg,*
*Einn sá veit, sem andvörp hjartans skilur,*
*Og sem heyrir hvad ei túngan þylur,*
*Hvörsu vóru hennar tárin mörg.*

*Sællrar elli sorgir eptir naut.*
*Gudrækni var gledi ekkju-daga;*
*Gud í tíma veit sín börn ad aga;*
*Södd lífdaga sælan afgáng hlaut.*

---

